Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

6. tölublað | Þriðjudagur 7. febrúar 1978 | 7. árgangur | Verð kr. 80.-



# Styðjum mótframboðið gegn St Rv

Nú um nokkura vikna skeið hefur hópur fólks innan Starfsmannafélags Reykjavíkurborgar, staðið að undirbúningi fyrir framboð til stjórnar í félagið. Ástæður þessa eru sennilega flestum kunnar, en félagið hefur um langt skeið verið eitt það lélegasta í baráttu fyrir umbjóðendur sína. Þetta hefur fyrst og fremst verið vegna sáttfýsi stjórnarinnar við flokksbræður sína í Sjálfstæðisflokknum.

Sérlega varð þetta ljóst í verkfalli opinberra sterfsmanna í vetur, en þá sveikst stjórnin undan merkjum og samdi á undan öðrum til að veikja verkfallið. Eina ástæðan fyrir þessum vinnubrögðum var að þjóna Sjálfstæðisflokknum og ríkisstjórninni, fyrir verri samninga en annars hefði verið hægt að ná. Framboðið núna kemur því vegna knýjandi nauðsynjar á að bæta kjör og styrkja baráttuna fyrir öfluga sókn láglaunafólks innan Starfsmannafélagsins.

Þeir sem standa að þessu framboði ætla sér einnig að bæta þá þætti félagsstarfsins sem stjórnin hefur látið drabbast niður, eins og félagsstarf og virkni meðlimanna í ákvörðunartöku og þátttöku í stjórn félagsins sýnir. Þetta er mjög brýnt verkefni, sérstaklega í félagi þar sem jafn mikill launamunur er á félögunum og raun ber vitni. Það verður tildæmis að koma í veg fyrir að stór hluti félagsmanna hljóti mun lægri kjarabætur en aðrir, eins og átti sér stað í síðustu samningum. Þá samdi stjórnin um 10.000 kr hærri kjarabætur til hæstu flokkanna en þar eru um 1/3 félagsmanna. Það þarf ekki að taka það fram að flestir í stjórnarliðinu eru í þessum flokkum. Slík og þvílík vinnubrögð mega ekki endurtaka sig. Hækkun lægstu launanna verður því að vera eitt af aðalbaráttumálum nýrrar stjórnar. Það verður einnig að skera á þau bönd sem eru við Sjálfstæðisflokkinn og Framsóknarflokkinn, sem staðið hafa félaginu fyrir þrifum hingað til. Þetta er örugglega vilji þorra félagsmanna, sem hingað til hefur verið haldið utan við ákvörðunartöku í félaginu.

Stefnumörkun þessa nýja framboðs er augljóslega í hag öllum þorra félagsmanna sem engu hafa að tapa þótt gamla stjórnin falli. Það væri því mikill ávinningur ef þetta framboð næði fram að ganga. Þetta er framboð sem miðar að því að endurreisa félagið og virkja fjöldann til starfs, gegn staðnaðri og gjörspilltri stjórn.

Í atkvæðagreiðslunni um síðustu samninga kom fram mikil óánægja, þó stjórninni hafi tekist með brögðum að þrýsta svikasamningunum í gegn. Þessi óánægja mun örugglega verða mun sterkari nú, þegar fólk hefur haft betri tíma til að átta sig á hvað stjórnin var raunverulega að gera í vetur. Það eru þessi augljósu svik sem munu ráða mestu um það hvort stjórnin fellur eða ekki. Starf andstöðunnar mun halda áfram þó ekki vinnist nema hluti baráttunnar nú. Það sem er mikilvægast við þetta framboð er að andstaðan er að skipuleggja sig og móta sér heilsteypta stefnu í málefnum félagsins, sem félagið mun njóta góðs af í framtíðinni, hverjar sem lyktir kosninganna verða.

Mjög mikill fjöldi hefur nú þegar tekið þátt í undirbúningi framboðsins og mörg hundruð hafa þegar sagst munu styðja framboðið. Þetta er ekki neitt upphlaup, heldur skipulögð barátta mjög stórs hóps innan félagsins.

Allar líkur eru því á að brátt sé veldi Sjálfstæðisflokksins og Framsóknarflokksins á enda innan Starfsmannafélags Reykjavíkurborgar. Það mun verða fyrir allan þorra félagsmanna, sem eignast munu raunverulegt baráttutæki. Þetta eru þau sjónarmið sem hafa verður í huga í þessu brýna hagsmunamáli, sem koma mun til góða gjörvallri verkalýðshreyfingunni.

framhald á síðu 3



Frá útifundi BSRB skömmu fyrir samningana við Reykjavíkurborg

# Kjaraskerðingar ríkisvaldsins: Hart mæti meiri hörku

Nú örfáum mánuðum fyrir kosningar svífast stjórnvöld landsins einskis í kjararánsherferðum sínum. Hver verðhækkunin tekur skipulega við af annarri, krónan fellur stöðugt að verðgildi og kaupmáttur launa rýrnar án afláts.

Það skyldi engan undra hversu bíræfið ríkisvaldið er í árásum sínum á lífskjör alþýðu landsins, jafnvel þó svo hinn helgasti réttur borgaralega lýðræðisins (atkvæði einstaklingsins á 4 ára fresti) sé á næstu grösum. Handhafar ríkisvaldsins (borgarastéttin) vita sem er að valdahlutföllin í þjóðfélaginu geta ekki breyst nema í örsmáum stíl við þingkosningarnar. Því ríkisvald borgarastéttarinnar er fólgið í fjármagnseign hennar, yfirráðum yfir atvinnutækjum þjóðfélagsins, dómsvaldi og lögreglu. Alþingi er minniháttar valdastofnun (hefur löggjafarvald án framkvæmdavalds) og er því í raun mest í ætt við kjaftasamkundu sem er til þess ætluð að draga fólk á asnaeyrunum frá því sem skiptir höfuðmáli þ.e. baráttu stéttanna í öllum sínum birtingarformum.

Það er því til lítils fyrir fólk sem hugsar sér nú gott til glóðarinnar og ætlar sér aldeilis að klekkja á íhaldinu í komandi kosningum, að treysta einungis á litla atkvæðið sitt. Það er auðvitað góðra gjalda vert að nýta það til hins ýtrasta en að ímynda sér að það sé hápunktur og mögulegur vendipunktur á valdahlutföllum stéttanna er því miður tálsýn og firra.

Ef svo væri að með þingræðisbaráttunni væri með umbótum hægt að koma á sósíalisma (afnámi einkaeignar á framleiðslutækjunum), þá

framhald á síðu 3

# Um hvað verður kosið í vor?

Nú nálgast hápunktur íslenska lýðræðisins óðfluga og glímuskjálftinn er þegar farinn að gera vart við sig í röðum þingflokkanna. Nú eru fjögur ár liðin síðan núverandi stjórn settist að völdum, fjögur löng ár verðbólgu, spillingar og versnandi lífskjara. Enn líður að því að íslensk alþýða fái að gegna sínu hlutverki í lýðræðinu - að smeygja kjörseðlinum niður í kjörkassann til þess að skera úr um það, hverjir skuli sitja við kjötkatlana á næsta kjörtímabili. Og það er allt og sumt. Það er nefnilega ekki kosið um kjör lýðsins, hvort vinnudagurinn verði styttri, vöruverðið stöðugt eða arðránið minna. Það er kosið um það hverjir skuli öðlast völdin til að kippa vísitölunni úr sambandi, setja bráðabirgðalög gegn alþýðunni, hygla pabbadrengjunum úr eigin röðum og skríða fyrir erlendum auðhringjum (að sjálfsögðu gegn prósentum). Marx sagði eitt sinn réttilega að borgaralega lýðræðið væri fólgið í því að leyfa lýðnum að kjósa um það einu sinni á fjögurra ára fresti hverjir yrðu böðlar hans og kúgarar næstu fjögur árin.



**Amerísk fyrirmynd að íslensku lýðræði.**

Nýjungin sem á að trompa alþýðu manna, er hið svonefnda prófkjör. Það er sótt til Ameríku af íslenskum krötum sem heyja örvæntingarfulla baráttu fyrir aumlegri

framhald á síðu 2

STÉTTABARÁTTAN 6. tbl. 7.2. 1978

LEIÐARI

# 1. maí er eining möguleg?

Starf og stefna þeirra samtaka sem staðið hafa fyrir aðgerðum á 1. maí hefur nú um nokkurt skeið leitt til þess að kröfugöngur og fundir hafa orðið nokkuð margir. Þó hafa aðgerðir og kröfugöngur hópanna sem lengst eru til vinstri í íslenskum stjórnmálum oftast átt það sameiginlegt að snúast gegn uppkeyptu verkalýðsforystunni í ASÍ. Frá þessu eru til undantekningar, en þetta verður þó að teljast aðaleinkenni þessara hópa. Ástæðan fyrir því að ekki hefur náðst eining þessara hópa á 1. maí um þetta brýna hagsmunamál er því ekki sú að þeir séu ekki áfjáðir í að efla baráttuna fyrir nýrri og öflugri verkalýðsforystu. Heldur er það hitt að þeir hafa ekki verið á einu máli um hvað sé mikilvægast að fram komi á þessum degi. Oft hefur það verið að þeir hafa verið of uppteknir af baráttu innbyrðis til að þeir hafi megnað að koma auga á hvað er mikilvægast að fram komi þennan dag. Þeir hafa ekki séð mikilvægi þess að sameinast í baráttunni gegn höfuðóvinunum innan verkalýðshreyfingarinnar, uppkeyptu verkalýðsforystunni. Þess í stað hafa þeir fundið sér átyllur, sem oft hafa verið nokkuð langsóttar og óskildar því sem mikilvægast er, til að halda sérstakar aðgerðir, hver í sínu lagi.

Fólk setur oft fram þá spurningu hvort mál sem teljast verða fjarskyld því sem helst er til umræðu þennan dag réttlæti þrjár eða fleiri kröfugöngur. Sérlega er mikilvægt að svara þessari spurningu, þegar haft er í huga að vegna klofningsins hefur margt fólk forðast þátttöku í aðgerðum dagsins, eða jafnvel tekið þátt í aðgerðum ASÍ. Það er ekki ýkja langt þar til við verðum að svara þessari spurningu, í verki því óðum líður að næsta fyrsta maí. Miklu skiptir því að við gerum okkur grein fyrir hvað það er sem skilur á milli og hvort ekki megi leysa það fyrir þann tíma.

KFÍml mun eins og áður leggja höfuðáherslu á baráttuna gegn uppkeyptu verkalýðsforystunni og á skipulagningu baráttunnar fyrir endurreisn verkalýðsfélaganna. Varla munu þær kröfur og annað sem flokkurinn leggur áherslu á verða til þess að valda sundrungu. KFÍml mun leggja mikla áherslu á að undirbúningur undir komandi kjarasamninga á næsta ári verði góður og kröfur eins og "Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku" og "Endurreisum verkalýðsfélögin sem baráttutæki", eru mikilvægar í því sambandi. Auk þess eru kröfur um aukið efnahagslegt öryggi verkalýðsins og aðrar brýnar hagsmunakröfur einnig nauðsynlegar. KFÍml mun þó ekki gera annað en óaflátanlega baráttu gegn uppkeyptu verkalýðsforystunni að urslitaatriði í þessu máli, en það álítum við vera mikilvægasta ef andstaðan á að geta skipulagt sig af einhverju viti.

Aðrar kröfur hljóta að vera samningsatriði og möguleikar ættu að vera á að finna millileiðir til að komast að samkomulagi.

Málaflokkar eins og jafnréttismál, baráttan gegn heimsvaldastefnu, æskulýðs- og skólamál, eða aðrir málaflokkar sem mikilvægir eru þennan dag ættu þarna auðvitað líka heima.

Mikilvægast er þó að við látum ekki eins og oft áður minniháttar mál sem snerta þessa málaflokka byrgja okkur sýn ef einhver möguleiki á að vera á að ná einingu.

Oft hefur mál eins og afstaða fólks til þess hvaða ríki séu heimsvaldasinnuð verið látin ráða úrslitum. Í stað þess að sjá mikilvægi þess að ná einingu um að við "berjumst gegn allri heimsvaldastefnu", sem allir eru sammála um. Auðvitað er mikilvægara að ná einingu um stærstu málin þó svo að hver túlki það fyrir sig, enda ef krafan er að allir hefðu nákvæmlega sömu túlkun á þessu er eins líklegt að aðgerðirnar yrðu jafn margar og þátttakendurnir.

Þetta ætti líka að vera haft til viðmiðunar í framkvæmdaratriðum aðgerðarinnar eins og hvort leyfa eigi flokksfána eða merki, ef ekki næst eining þá á hreinlega að sleppa þeim. Það getur ekki verið mikilvægara að bera flokksmerki heldur en að viðhalda einingunni.

Það verður að meta hvað vinnst með sameiningu vinstri hópanna á 1. maí næstkomandi sem mikilvægt skref til öflugrar baráttu gegn ASÍ forystunni. Hver um sig verður að taka afstöðu til þess hvað hann álítur vera ávinning fyrir verkalýðsstéttina og um leið hvort hann er ekki tilbúinn vegna einingarinnar að gera nauðsynlegar málamiðlanir til að af þessu geti orðið

framhald af forsíðu

# Um hvað verður kosið í vor?

tilveru sinni. Detti þeir út úr þinginu, eru dagar þeirra taldir sem flokks, það skynjar enginn betur en krataforystan í dag. En hinir flokkarnir hafa lagst í sama andlausa svaðið og prófkjörin hafa dunið yfir. Ekki svo að skilja að farið verði eftir niðurstöðunum. Það ríkir goggunarröð innan borgaraflokkanna, sem breytist því aðeins, að ljóst sé að uppfærsla einstaklings á framboðslistanum verði öllum að gagni. En meðan íslenskri alþýðu er ætlað að sökkva sér ofan í þunga þanka um það hvort Albert eigi að vera númer 1 eða 2, Lúðvík fyrir sunnan eða austan eða Alfreð efstur eða neðstur, heldur arðránið og spillingin ósnert áfram. Sjálf málefnin eru lögð í bleyti, þar til hin stóra stund nálgast. Þá verður fyrst stóru trompunum spilað út. Reyndar er þegar farið að örla á slíkum áróðri en hann á eftir að aukast. Fyrst og fremst má merkja það á ítrekaðri velferðargoðsögn leiðaranna í Morgunblaðinu, en af þeim mætti helst skilja að kaupmátturinn sé hundrað prósent og velferð í algleymingi. Það er þó alveg þagað um svörtu hliðina á kaupunum, þeirri staðreynd að almenningur selur vinnuafl sitt mörg ár fram í tímann til þess að geta eignast Fiat eða litasjónvarp. Velferðin er á víxli. Og gjlddaginn getur varla verið langt undan. Þá má líka sjá hylla undir kjördag meðal Alþýðuhandalagsforystunnar, með því að nú er hermálið allt í einu að verða umfjöllunarefni tilvonandi "alþýðubandalagsráðherra". Þá er steinhætt að tala um NATO og gamli söngurinn um herlaust NATO-land er sunginn að nýju. Öll fallegu orðin sem AB-leiðtogarnir hafa sagt á ráðstefnum Samtaka Hersstöðvaandstæðinga um baráttu gegn hernaðarbandalögum og heimsvaldastefnu opinberast nú sem aumlegt fleipur tækifærissinna. Nú er nefnilega val á milli efnahagslegra (og pólitískra) hagsmuna AB-klíkunnar og efnahagslegra og pólitískra hagsmuna íslenskrar alþýðu. Og þá er Lúðvík ekki seinn að velja sætin handa sér og sínum. Þegar hann er orðinn ráðherra og gengur á bak orða sinna, nægir sennilega gamla bragðið: "Við erum nú ekki einir í stjórn".

Getur verkalýðurinn notfært sér kosningarnar sér til hagsbota?

Þrátt fyrir ýlduna sem leggur af íslenska embættismannakerfinu er fjarstæða að standa álengdar og hafa engin afskipti af kosningunum. Það er eins með borgaralega lýðræðið og annað mótlæti í lífinu. Til þess að losna við það verður að takast á við það, skoða það og skilja svo hægt sé að sýna hverjum og einum hvers konar innviðir eru á bak við uppábúin skrauttjöldin. Það er mikilvægt að snúast gegn spillingunni, afhjúpa hana og láta þá sem lifa sníkjulífi á striti fjöldans súpa seiðið af gerðum sínum. Verkalýðsstéttin ein er hæf til þess að stjórna landinu út úr þeim ógöngum sem borgarastéttin leiðir það í. Hún getur skapað lýðræði sem hefur alla kosti hins borgaralega lýðræðis og þúsund kosti umfram þá. Því vinnandi fólki sem aldrei hefur vanist því að lifa á öðrum, mun ekki leyfa spillingu og sníkjulifnað embættismanna, eins og nú viðgengst. Hún mun ekki setja hagsmuni fámenns hóps fjármálajöfra ofar hagsmunum alþýðunnar, hvorki efnahagslega eða pólitískt. Hún mun ekki setja leyndarinnsigli á utanríkispólitík sína, af þeirri einföldu ástæðu að hún þarf ekki að fela gerðir sínar fyrir meirihlutanum-hún sjálf og annað vinnandi fólk er meirihlutinn. Verkalýðslýðræðið stendur borgaralegu lýðræði framar á öllum sviðum, það er lýðræði fyrir meirihlutann en ekki minnihlutann. En getur þátttaka í komandi kosningum orðið til að skapa slíkt lýðræði? Nei. Verkalýðurinn mun aldrei ná fram markmiðum sínum á grundvelli núverandi ríkisfyrirkomulags. Því það er byggt upp með hagsmuni auðstéttarinnar í huga. Hvað ætti verkalýðsríkið t.d. að gera við skattakerfi í núverandi mynd? Í sósíalismanum verða engir tekjuskattar. Og stjórnarskrá, dómskerfi og lögreglu sem miðast við verndun einkaeignarinnar, þegar sameiginleg eign verður sköpuð á framleiðslutækjum þjóðarinnar? Til þess að skapa verkalýðslýðræði, þarf að bylta þjóðfélaginu og tryggja völdin í höndum verkalýðsstéttarinnar. En kosningarnar geta samt orðið til gagns. Með þeim er hægt að afhjúpa spillinguna sem viðgengst í dag, opna augu fjöldans fyrir kúgunareðli ríkisvaldsins í núverandi mynd og þjappa honum saman til baráttu gegn því. Með þátttöku í kosningunum er hægt að færa fram stefnuskrá verkalýðs og vinnandi alþýðu gegn hagsmunum auðstéttarinnar og efla þannig samstöðu lýðsins um hagsmuni sína.

Stefnuskrá fjöldans.

Samfylking gegn pólitísku ofbeldi núverandi skipulags yrði að eiga sér raunhæfa og skýra stefnuskrá. Slíka stefnskrá má ekki gera of flókna til þess að hægt sé að safna sem flestum um hana. Eigi að síður verður hún að draga fram kjarnann í hagsmunum fjöldans á skýran og skorinorðan hátt. Hún verður að vera kjarnyrt og beinskeytt. Ennfremur verður hún að vera endurrómur af vilja fjöldans en ekki skrifborðsskjal samið af einhverjum stjórnvitringi. Hver eru helstu hagsmunamál íslenskrar alþýðu í dag? Þetta verður slík stefnuskrá að meðhöndla og setja fram á einfaldan og skýran hátt. Þrjú meginmál eru brennandi nauðsyn fyrir lífsbaráttu fjöldans. Í fyrsta lagi baráttan fyrir auknum lýðréttindum. Gegn óheftu braski og svindli fámennrar klíku með örlög þjóðarinnar -fyrir víðtæku lýðræði fjöldans og yfirráðum hans

framhald á síðu3

# 8. mars baráttudagur

Tvær hreyfingar í Reykjavík hafa ákveðið að gangast fyrir fundi á 8. mars n.k. Eru þetta Rauðsokkahreyfingin og nýstofnuð 8. mars-hreyfing, sem mun aðeins starfa fram á 8. mars.

Þennan dag árið 1848, fóru verkakonur í fyrsta sinn í verkfall og var það í Bandaríkjunum. Nokkrum árum síðar var dagurinn svo tekinn upp sem alþjóðlegur baráttudagur. Rauðsokkahreyfingin mun nú halda opinn fund og er von til að hann geti orðið góður, enda hefur þeirri stefnu vaxið fiskur um hrygg innan hreyfingarinnar, að heyja kvennabaráttuna á grundvelli stéttabaráttu. 8. mars-hreyfingin fer fram undir aðal kjörorðunum:

- Kvennabarátta á grundvelli stéttabaráttu.
- Gegn allri heimsvaldastefnu.




## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud 15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti 23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum 38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi.

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v.444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 11 N : 220. 22246 LUND

# Miskunnarleysi íþróttanna

**Dufþakur**



Þátttöku íslendinga í heimsmeistarakeppninni í handbolta í Danmörku lauk víst með heldur sviplegum hætti að flestra dómi. Þeir töpuðu þar öllum sínum leikjum og voru þar með úr leik í keppninni. Sjaldan eða aldrei hafa íþróttamenn okkar valdið eins miklum vonbrigðum og sjálfir voru þeir niðurbrotnir menn, þegar leiknum við spánverja lauk.

Það vantaði auðvitað ekki grobbið hjá handknattleiksmönnum og þjálfurum þeirra og aðstoðarmönnum áður en haldið var utan til keppninnar. Allir voru þeir því sem næst öruggir um, að Ísland kæmist í 8-liða úrslitakeppnina og þeir allra bjartsýnustu spáðu landanum heimsmeistaratign. En það kemst náttúrulega enginn áfram á montinu einu saman og líklega hefur þetta ofmat á handboltamönnunum íslensku átt sinn þátt í því, að svo fór sem fór.

En er annars nokkur ástæða til vonbrigða, þegar allt kemur til alls? Íslendingar eru góðir handknattleiksmenn, en í þessari keppni var einfaldlega við ofurefli að etja. Bæði sovétmenn og danir eru meðal þeirra allra fremstu á þessu sviði og spánverjar virðast aldrei hafa verið betri en einmitt nú.

Ekki var ætlunin að fara að skrifa hér einhvers konar íþróttafréttaritarapistil, heldur skal nú vikið að öðrum þætti þessa máls, sem snertir ekki aðeins þessa umræddu keppni, heldur íþróttamót yfirleitt eins og þau ganga fyrir sig í auðvaldsheiminum.

Það sem öðru fremur skiptir máli er að vinna sigur, öðlast frægð og frama og skapa hetjur í einstaka íþróttagreinum, sem síðan eru gerðar að eins konar þjóðardýrðlingum. Þetta er auðvitað á kostnað heiðarlegrar og drengilegrar keppni og almennrar þátttöku fjöldans í íþróttum, þar sem tiltölulega miklum fjármunum er sóað í þá fáu einstaklinga, sem skara fram úr í viðkomandi íþróttagreinum.

Alls kyns bragða er beitt til að klekkja á andstæðingnum og reynt að ráðast að honum þar sem hann er veikastur fyrir. Nú er mjög vinsælt að njósna um lið andstæðinganna og þannig reynt að hagnýta sér kvikmyndatæknina til að draga fram í dagsljósið í öllum smáatriðum hvar andstæðingarnir eru veikastir fyrir og hvar sterkastir.

Þjálfari danska liðsins lýsir þessu nokkuð vel í viðtali við blaðamann Þjóðviljans "Við vissum að Gunnar (markvörður íslenska liðsins -aths. greinarhöf.) ver lítið með vinstra fæti svo við skutum þar mikið í byrjun en hann varaði sig á þessu bragði okkar svo við skiptum yfir á hægri fótinn. Þar var hann líka vel á verði svo við tókum fram síðasta vopnið sem var að miða á andlitið. Það tókst og smám saman brotnaði sjálfstraustið hjá markverðinum." (Þjóðv. 31.1.)

Þannig er miskunnarleysið gagnvart andstæðingnum, þegar frægð og medalíur eru annars vegar.

Öðruvísi er þessu farið hjá sósíalísku ríkjunum. Því fengum við að kynnast lítilsháttar, þegar landslið Kína í handknattleik heimsótti Ísland í vetur. Hjá kínverjum situr vináttan í öndvegi, en keppnin skipar annað sæti. Og í Kína er lögð áhersla á alhliða þátttöku fjöldans í íþróttum, fremur en að hygla þeim einstaklingum er fram úr skara. Ef slík sjónarmið væru höfð að leiðarljósi í íþróttamótum í stað metorðastrits væri íþróttaandinn allur annar og íslenskir íþróttamenn þyrftu þá ekki að skammast sín fyrir að bíða ósigur heldur taka ósigrinum með sæmd.



Að tapa íþróttaleik er sumum harmleikur.

framhald af síðu 2

UM HVAÐ VERÐUR KOSIÐ Í VOR?

yfir atvinnutækjum þeim sem hann starfar við og framleiðslunni sem hann hefur skapað.

Í öðru lagi raunhæfar efnahagslegar úrbætur. Stytting almenns vinnutíma í 8 stundir alls staðar, afnám tekjuskatts og sköttun fyrirtækja, alger verðstöðvun og bann við húsaleigubraski.

Í þriðja lagi barátta fyrir ævarandi friðhelgi landsins. Brottrekstur bandaríska hersins og úrsögn úr NATO, undirbúningur undir yfirvofandi styrjöld milli Sovétríkjanna og Bandaríkjanna og fordæming á yfirgangi og heimsvaldastefnu þessara tveggja risavelda. Samstaða með óháðum ríkjum þriðja heimsins.

Þetta eru hinar þrjár gullnu reglur sem íslensk alþýða þarf að heyja baráttu fyrir og framsetning þeirra í komandi kosningum hafa vissulega gildi, þó ekki væri nema að kynna þessar hugmyndir.

En framtíð Íslands ræðst ekki af þessum kosningum, heldur af baráttu og meðvitund hins vinnandi fjölda. Því fyrr sem hann sameinast og skipuleggur liðssveitir sínar til atlögu, því nær dregur þeirri stundu að Ísland geti orðið raunverulegt velferðarríki - ríki hins vinnandi manns sem fær að njóta ávaxtanna af starfi sínu án arðráns.

# Kjaraskerðingar ríkisvaldsins: Hart mæti meiri hörku

framhald af forsíðu

myndu þeir fóstbræðurnir Geir Hallgrímsson forsætisráðherra og Ólafur Jóhannesson dómsmálaráðherra ásamt skyldiliði sínu, ekki voga sér að taka þá áhættu að nefna kjaraskerðingar svo mikið sem á nafn. Og auðvitað þá af ótta við að hljóta ekki kosningu til Alþingis við næstu atkvæðagreiðslu.

Borgarastéttin óttast ekki kosningarnar. Ítök hennar yfir öllum valdaþráðum í þjóðfélaginu eru svo sterk að hún hefur enga ástæðu til að óttast þær. Því auk þess að hafa full yfirráð yfir því alræðisvaldi sem áður greinir hefur hún "hreina" fulltrúa sína við stjórnvölinn á hinu borgaralega þingi "lýðræðisins" og til að hylma yfir alvaldið, eru síkvartandi "stjórnarandstæðingar" (tákn lýðræðisins) til staðar. Borgarastéttin hefur sterk hlutlæg og hugmyndafræðileg ítök í verkalýðsfélögum og samböndum. Þessi ítök hennar gera henni að miklu leiti kleyft að halda aftur af höfuðóvini sínum - verkalýðsstéttinni. Birtingarmynd þessara ítaka er samtryggingarkerfi þingflokkanna í stjórnum verkalýðshreyfingarinnar (þeir berjast þar ekki hvorir gegn öðrum), uppkeyptir verkalýðsforingjar og stéttasamvinnan að mestu leiti ríkjandi stefna verkalýðsfélaganna.



Auðvaldið græðir - verkafólk tapar.

Verðhækkanirnar eru skipuleg árás á kjör launafólks.

Það er fengin reynsla, allt frá því í samningunum um "rauðu strikin", að strax eftir að búið er að reikna út næstu kauphækkun eða réttara sagt krónutöluhækkun (sem kemur ekki til framkvæmda fyrr en einum til tveim mánuðum eftir útreikninginn), þá hækkar verð á vörum líkt eins og um flóðbylgju væri að ræða.

Þetta vilja yfirvöld og áróðursmenn þeirra láta okkur halda að sé eitthvert náttúrufyrirbrigði, "eðlileg" afleiðing kauphækkana og ekkert sé við þessu að gera.

En raunin er sú að skipulag samninganna sem gerðir eru milli Alþýðusambandsins og atvinnurekenda, býður upp á þennan möguleika borgaranna til að rýra kaupmátt launanna.

Þessar verðhækkanir fást svo ekki bættar launafólki fyrr en mörgum mánuðum síðar og þá samkvæmt ófullkominni vísitölu. Þannig verður eilíf hringrás þar til samningarnir renna út en þeir eru gerðir fyrir allt of langan tíma í einu.

Svona erum við svikin samkvæmt hinum margflóknu samningum og þannig verðum við svikin áfram ef við tökum ekki málin réttum tökum. Og fyrir það fyrsta er að styrkja innviði verkalýðshreyfingarinnar með því að berjast gegn og afhjúpa erindreka borgarastéttarinnar innan hennar.

Þá fyrst er hægt að snúa sér af alefli gegn borgarastéttinni.

Verðhækkanirnar í hnotskurn

Afnotagjöld hljóðvarps og sjónvarps hækka um 28%.
Kaffi hækkar um 9% í heildsölu og 10,4% í smásölu.
Brauð hækkar um 8,6% til 21,5%.
Flugfrakt innanlands hækkar um 10%.
Dagblöðin hækka um 13,4%.
Fargjöld sérleyfishafa hækka um 13,7%.
Niðursoðinn fiskur hækkar um 11,1%
Nýr fiskur hækkar um 15-19%.
Taxti leigubifreiða og sendibifreiða hækkar um 22%.
Hljóðvarpsauglýsingar hækka um 25%.
Aðgangur að sundstöðum hækkar um 22%.

Og miklu fleirri verðhækkanir eru væntanlegar og eru ásamt gengishrapi, þegar búnar að skerða kaupgetu þína þegar þú lest þetta blað.

6.2. 1978.

# Styðjum mótframboðið gegn St Rv

framhald af forsíðu

Við styðjum því eindregið þetta framtak sem unnið hefur verið af baráttufúsu fólki. Við skorum því á alla sem vilja fá nýtt og betra félag, sem byggir á lýðræðislegum vinnubrögðum en ekki núverandi flokksræði, að styðja þetta framboð. Það er óumræðilega mikilvægt að það hljóti sem allra mest fylgi í komandi kosningum. Á því veltur hvort meirihluti félagsmanna geti verndað kjör sín eða ekki og þannig stutt andófið gegn því að auðvaldinu takist að velta byrðum kreppunnar yfir á herðar verkalýðsins.



Þórhalli þökkuð vel unnin störf í þágu Sjálfstæðisflokksins.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
6. tbl. 7.2. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



## Alþýðubandalagið styður verðbólguna

Allir þeir flokkar er nú sitja Alþingi, hvort heldur þeir telja sig sósíaliska eða borgaralega, hafa sýnnt algjöran vanmátt í því að berjast gegn verðbólgunni. Hvort heldur við búum við vinstri eða hægri stjórn er sömu aðferðunum beitt til að ráða bót á efnahagsvandræðunum, byrðunum er velt yfir á vinnandi fólk og því kennt um vandræðin. Verkafólk er sér vel meðvitað um að verðbólgan er aðferð auðmannanna til að stela aftur fengnum kjarabótum, um leið og þeir maka krókinn með ýmis konar braski. Ríkisstjórnir verða að hlýta þeim er yfir efnahagslífinu ráða, það eru því í raun og veru stóratvinnurekendur sem ráða ferðinni þrátt fyrir að yfirlýstir sósíalistar úr Alþýðubandalaginu vermi ráðherrastólana. Þetta gera forystumenn Alþýðubandalagsins sér vel ljóst, þrátt fyrir að þeir reyni að slá ryki í augu okkar og biðja um stuðning við nýja alþýðustjórn þar sem auðmennirnir ráða að sjálfsögðu að tjaldabaki. Ab reynir að draga fjöður yfir þá staðreynd að ríkisvaldið er stettarvald borgarastéttarinnar, og segir að kerfinu megi breyta innan frá, bara ef þeir fái nógu mörg atkvæði. Það þarf því engan er telur sig róttækan að undra er Magnús Kjartansson forystumaður Alþýðubandalagsins í atkvæðaleit, tekur upp vörn fyrir verðbólgu braskaranna í Þjóðviljanum um s.l. mánaðarmót. Þar segir hann hreint út, sem annars hefur aðeins sést í Morgunblaðsgreinum að verkafólk hafi beinan hag af verðbólgunni. Lengra er varla hægt að ganga í svanasöngnum til braskaranna í Sjálfstæðisflokknum, enda er markmið AB forystunnar að komast í ríkisstjórn með þeim flokk að afloknum næstu kosningum. Líklega mun gamla íhaldshækjan Alþýðuflokkurinn verða þar með í ráðum. Hvorki íhaldið né AB telja að brask og bruðl borgarastéttarinnar sé orsök þeirra geigvænlegu kreppu sem nálgast óðfluga, heldur aðeins of hár kaupmáttur og óskynsamlegar fjárfestingar kapitalista. Borgaralegir stjórnmálaflokkar trúa á auðvaldsskipulagið og valdastofnanir þess og telja að innan þess kerfis geti verkafólk náð jafnrétti á við auðmenn. Sósíaliskur verkalýðsflokkur hefur það að markmiði að afnema auðvaldsskipulagið og ríkisvald þess og byggja þess í stað sósíalískt þjóðskipulag þar sem ríkisvaldið er í höndum verkalýðsstéttarinnar. Þar er keppikefli þjóðarframleiðslunnar ekki gróði einstaklinga af annara vinnu eins og ávallt mun verða í auðvaldsþjóðfélagi, jafnvel þó að Alþýðubandalagið hefði meirihluta á Alþingi.



Verðbólgan hjálpar útgerðarmönnum að greiða niður skipin.



Útgerðarformaður Alþýðubandalagsins.

## Fundur

Hverfahópur Samtaka herstöðvaandstæðinga í Vesturbæ og Miðbæ heldur fund að Tryggvagötu 10, þriðjudaginn 13. feb. kl. 20:30.

Herstöðvaandstæðingar! Eflum baráttuna og tökum þátt í starfinu!

Athugið framvegis verður hægt að fá inni í Stéttabaráttunni ókeypis smáauglýsingu um fundi og aðrar aðgerðir. Hringið í síma 27810, milli kl. 15 og 18 á virkum dögum.

ÚR NATÓ
HERINN BURT

## Leiðretting

Í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar varð ritvilla í síðustu málsgrein í greininni "Krafa um að EIKml sanni sitt mál". Rétt hljóðar greinin svona:

"Ef nú EIKml gerir tilraun til að sanna "skemmdarverkin" upp á verkamennina, þá verður að koma skýrt fram á hvaða starfi og hverra voru þau unnin."

## Stórkostlegar breytingar í Kambodíu

Það er enn minnisstætt öllum að árásarstríð bandarísku heimsvaldasinnanna olli ofsalegri eyðileggingu á landbúnaði í Kambódíu. Yfir 80% ræktanlegs lands var eyðilagt, flest öll þorp í nánd við víglínuna jöfnuð við jörðu og um helmingur fjarlægari staða. Margar borgir voru lagðar í rúst, fénaður stráfelldur og skortur á vinnuafli. Eftir frelsunina staðhæfðu heimsvaldasinnarnir að alþýðustjórnin í Kambódíu gæti alls ekki brauðfætt hina 7 milljónir íbúa landsins.

Hvert er ástandið í Kambódíu nú? Þessi grein er eftir nokkra menn sem heimsóttu landið nýlega.

Mikið er af ám og vötnum í landinu, þar sem þar rignir mikið og er hitabeltisloftslag. Vegna þessa er landið sjálfu sér nægt með vatn. Áður gat samt sem áður vatn og uppskera brugðist vegna þurrka.

Eftir frelsunina hleyptu íbúar Kambódíu af stað áætlun undir vígorðinu: "að ráða yfir vatninu", og hófu byggingar vatnsveitustöðva. Stórir vatnsgeymar fyrir 100-200 milljón kúbikmetra vatns voru byggðir í hverju héraði, geymar fyrir 50-60 millj cub. voru reistir í hverri sýslu og á smærri landssvæðum og litlir geymar fyrir 5-10 m. cub. voru reistir í hverjum hreppi. Nokkur hundruð kílómetra skurðir og síki grafin og fjöldi stífla byggður. Þessar framkvæmdir geta séð u.þ.b. 400.000 hekturum lands fyrir vatni.

Þegar við komum að vatnsgeyminum "17. janúar", sáum við samvinnustarfsmenn byggja stíflu úr grjóti. Sex km langur skurður tengdi saman tvö fjöll, Ta Ngen og Kampin-Boy. Frá 20. feb. til 15. maí 1977 unnu 20 þús manns á svæðinu dag og nótt og tvær milljónir kubikmetra jarðvegs voru fluttar úr stað. Vatnsgeymirinn hefur nú að geyma 120.000.000 cub. vatns og akurlendið sem nýtur vatns frá honum er 7.723 hektarar. Þegar áætluninni lýkur árið 1980, mun geymslumagn þess geymis verða 199 millj. kub. Þetta er stórkostlegur sigur þeirrar stefnu að treysta á eigið afl. Félagi Nhim Ros, ritari flokksdeildarinnar í norð-vestur Kambódíu sagði: "Vinnuafl kom að mestu frá samvinnufélögum staðarins, grjót og sandur og annað byggingarefni var á þeirra vegum. Ríkið sá aðeins um nauðsynlega flutninga".

Í miðhéruðunum sáum við fljótið Chimit, lokað af "1. janúar-stíflunni" og vatnið flæddi eftir skurði og fór þangað sem fólkið vildi fá það. Yfirverkfræðingur framkvæmdanna, Félagi Pok, ritari flokksdeildarinnar á staðnum, sagði okkur að þeir hefðu sjálfir útvegað það timbur sem þurfti.

Við heimsóttum gúmíplantekruna Chup, sem er ein sú stærsta í suðvestur Asíu. Hún er á 18 þús. hektara landi, þar af eru 14 þús. þar sem plantað er trjám og 5 þús. þar sem plantað er ungviði.

Í austurhlutanum eru nokkrar stórar gúmíplantekrur. Formaður nefndar sem sér um þær sagði: "Í byrjun þjóðfrelsisstríðsins var her okkar fyrirskipað að vernda gúmíplantekrur, svo hægt yrði að koma þeim heilum í hendur fólksins." Núna hafa þær tekið á sig nýja mynd, með nýjum ungum plöntum og nýrri kynslóð fólks sem vinnur þar. Með þjálfun og ýtni hefur fólk náð meiri afköstum en áður. Nú getur verkamaður tappað af 5-600 trjám á dag. Með því að hvert tré gefur 4 kíló gúmís á ári, gefur hektari af sér 4.5 tonn á ári.

Baðmull var varla framleidd fyrir byltinguna. Eftir frelsunina hefur sú framleiðsla margfaldast og er hvatt til þess af ríkinu og flokknum. Sáð var í 2 þús. hektara lands 1976 og 5 þús. 1977. Við sáum rétt vestur af bænum Battanbang, baðmullarakra upp á 1200 hektara. Þar er búist við að framleiðslan verði 1.5 tonn.

Kommúnur urðu til í frelsisstríðinu og mynduðust á ýmsan hátt.

Við heimsóttum Leaybo kommúnuna. Á stríðstímum var fólk vant að flýja heimili sín. Eftir frelsunina kom flóttafólkið til baka, endurbyggði hús og hóf að framleiða. Þau sáu ríkinu fyrir 100 tonnum af hrísgrjónum 1977 og ætla að tvöfalda það næst. Sérhver íbúi fær 312 kíló á ári og lífskjörin fara batnandi. 63 hús voru byggð í fyrra og 500 verða byggð í ár. Í Leaybo eru líka skólar og sjúkrahús.

Afskipti heimsvaldasinna af Kambódíu hafa stöðvast. Kambódía rís úr öskunni, læknar sár stríðsins og fólkið er að skapa nýtt og betra þjóðfélag.

(Hsinhua News).



"Sveltur sitjandi kráka" - Kambódíumenn urðu að leggja alla áherslu á landbúnaðinn til að forða þjóðinni frá hungursneyð.